# SAMEININGIN.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af Hinu ev. lút. kirkjufélagi Íslendinga í Vestrheimi.*

---

SEYTJÁNDI ÁRGANGR:

Marz 1902——Febr. 1903.

---

RITSTJÓRI

Jón Bjarnason.

---

ÚTGÁFUNEFND:

Jón Bjarnason, Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Bjőrn B. Jónsson, N. Steingrímr Þorláksson.

---

WINNIPEG

PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU LÖGBERGS.

# EFNI:

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

17. ÁRG. WINNIPEG, MARZ 1902. NR. 1.

## Páskasálmr

eftir séra VALDEMAR BRIEM út af Jóh. 11, 32—45.

(Lag: Öldungar Júda annars dags.)

1. Við grafir einatt grátum vér;
sá grátr furða nein ei er
fyrst Jesús grét, er gröf hann sá;
hví grét hann þá,
er ráð á lífsins afli á?

2. Við Lazarusar gröf hann grét,
frá gröf hann taka steininn lét.
Hinn ungi maðr uppreis þá,
er í þar lá;
hann drottinn reisti dauða frá.

3. Við sjálfs hans gröf og grátið var,
þar grátnar stóðu konurnar;
en lyft var steini legstað frá,
sjálft lífið þá
frá dauða reis í dýrð að sjá.

4. Á brjóstum vorum finnst oss farg,
já, feiknar-þungt og mikið bjarg.
En huggumst þó, því hvort mun þá

ei herra sá
þeim björgum einnig bylta frá?

5. Oss finnst á vetrum frost og snjár
sé farg, sem undir liggi nár.
En blessuð sumar-sólin há
oss send er þá
og bjargi þessu byltir frá.

6. Oft þíðir döggin þela' í jörð,
en þó er gröf svo köld og hörð,
að vor ei tár fá unnið á
þeim ís og snjá;
en drottins tára-dögg það má.

7. Hann oft lét blindra augu sjá,
hvort eigi mun hann geta þá
af þerrað tár af þeirri brá,
sem þau eru' á,
sú lífsins sólin hrein og há?

## Loftið þrungið af kærleika.

Föstu-hugleiðing eftir séra N. Steingrím Þorláksson.

Gott er að vera í góðu lofti. Það er svo hressandi. Og sá, sem vesall er, getr orðið heilbrigðr þar. Þetta vitum vér öll.

En hvaða loft er betra, meir hressandi og lífgandi bæði fyrir sál og líkama, en þar, sem kærleikrinn er? Vér finnum öll til þess, hvað blessað loft það er. Og öll þráum vér að vera í því og anda því að oss.

Vér erum oft að flytja oss til þess að komast í betra og hollara loftslag. En ef vér gætum flutt oss inn í kærleiks loft! Átt þar svo heima. Andað því að oss. Fengið kærleikann svo inn í blóðið og hjartað. Ó, hvað líf vort myndi græða á því!

Um þetta efast naumast neinn. Því þrátt fyrir allar efa-

semdir og vantrú er ekki líklegt, að nokkur efi það eða vantreysti því, að það sé heill og hamingja fyrir menn að búa þar sem kærleikrinn er. Eins og geislar mœtast í brennipunkti sínum, eins koma tilfinningar manna yfir höfuð saman í því, að mannkynið allt ætti að flytja inn í loft, þar sem kærleikrinn er, ef það ætti kost á því.

,,Já, ef eg ætti kost á því, þá flytti eg mig" — stynr mannkynið. Það þyrstir eftir kærleika og andvarpar af þrá. Og hjá oss öllum verðum vér vör við þennan mannkynsþorsta.

En nú eiga allir kost á að flytja sig inn í loft þrungið af kærleika og eiga þar heima og aldrei að þurfa að flytja sig úr því. Og þó lítr ekki út fyrir, að neinn innflutningsstraumr sé þangað. Einstöku menn flytja sig og hafa aðra með sér. En margir vilja hvergi fara. Alíta það heimsku að vera að flytja sig þangað. — Undarlegt!

Hjá Jesú Kristi er loftið þrungið af kærleika. Allsstaðar verðum vér vör við það, en hvergi þó eins og í píslarsögu hans, þar sem píslar- og fórnarkærleikr hans birtist í sinni dýrðlegustu mynd. Þrátt fyrir loftstraumana köldu og óhreinu, sem blása hér á hann eins og úr öllum áttum, er kærleiksloftið um hann þó hið sama, tært og hlýtt, læknandi og lífgandi.

Þeir, sem í anda og sannleika flytja sig inn í þetta loft, dvelja þar ekki að eins stund og stund með huga sinn, heldr setjast þar að og eiga þar heima að öllu leyti. Þeir verða fyrir áhrifum loftsins. Þeir reyna, hve gott er að búa þar og eiga þar heima.

En hvað það er sorglegt, að allir skuli ekki flytja sig þangað! Að nokkur skuli álíta það andlega búhyggni af sér, vott um að hann hafi meira vit og gleggri sjón en sumir, ef hann vill ekki flytja! Er það ekki undarlegt?

Jú, þeim mun undarlegra sem kærleiki Jesú í raun og veru er ómótstœðilegr; því það getr þó ekki dulizt neinum, hvað það kostaði hann að elska oss mennina. Ó, hvað það kostaði hann! og hvað hann varð að leggja í sölurnar! En hvergi verðum vér þó vör við, að honum hafi fundizt hann

þurfa að leggja of mikið í sölurnar fyrir oss, kærleikr sinn krefjast of mikils af sér, verðið vera of hátt, sem hann varð af hendi að inna oss til lausnar. Aldrei ofbýðr honum neinn kostnaðr, nein fórn af hálfu sinni, sem verða mætti oss til hjálpar, vegna þess að hann elskar oss. Honum ofbýðr að eins eitt — að nokkur bræðra sinna glatist, sem hann fórnar sér fyrir.

Enginn hefir því elskað eins og Jesús. Enginn sýnt það eins og hann. Enginn látið loftið um sig verða eins þrungið af kærleika og hann. Hér er kærleikrinn á œðsta stigi. Hér birtist hann í allri sinni dýrð.

En hér kemr líka syndin fram ljósast og ljótast. Hér gagnvart kærleikanum, í ljósi kærleikans, þegar hann skín sem allra skærast. Syndin er ljótust og sést bezt sem synd gegn honum, sem elskar — sem synd gegn Jesú Kristi, gegn dýrðlegustu og dásamlegustu kærleiksopinberan guðs.

Vantrúin er engin synd, segja sumir. Hún er upplýsing, framför, vit, segja þeir. Er hún þetta, þegar vér lítum á hana í gegn um kærleika Jesú Krists? Eða er ekki óvirðing á elsku þeirri, sem Jesús elskar oss með, *synd?* Er ekki óvirðing á píslarkærleika hans *synd?* Óvirðing á fórninni, sem hann bar fram, á öllu því, sem það kostaði hann að fá frelsað oss mennina, *synd?* Hann leggr sjálfan sig í sölurnar, fórnar sjálfum sér, kostar öllu til, sem unnt er að kosta, fyrir oss, af því hann elskar oss. Og svo ætti það ekki að vera nein synd að óvirða þennan kærleika, með orðum og háttalagi lýsa yfir því, að þetta allt sé einskis virði! — Guð hjálpi öllum, sem hugsa þannig.

Ef vér viljum læra að þekkja oss sjálf, skoðum oss þá hið ytra og innra í ljósi kærleika Jesú Krists. — Hvað á hann skilið? Til hvers hefir hann unnið af oss? Spyrjum oss sjálf og sjáum svo, hvað hann hefir fengið hjá oss.

Ef vér viljum læknast og lifa, flytjum oss þá — ekki að nokkru leyti, heldr að öllu leyti — inn í kærleiksloftið hjá honum. Vér eigum öll kost á því. Og innst í hjarta voru þráum vér öll að eiga heima þar sem loftið er hollt og gott.

Ó, að vér Íslendingar vildum flytja þangað allir!

## Seytjándi passíusálmrinn

og texti sá, sem þar er lagt út af.

---

Frásagan um afdrif Júdasar frá Karíot, hins svikula lærisveins, er aukaþáttr í píslarsögu frelsarans, henni að sjálfsögðu tilheyrandi, en þó í rauninni utan við hana. Matteus kemr með þann auka-harmsöguþátt í 27. kapítula guðspjalls síns öndverðum, 3.—10. v. Guðspjallamaðrinn skýtr þeim þætti inn í píslarsöguna undir eins á eftir að hann hefir með fám orðum skýrt frá dauðadóminum, sem ráðið mikla gyðinglega kvað upp yfir Jesú á fundi sínum snemma morguns á föstudaginn langa, og því að þeir hafi farið með hann sem bandingja til Pílatusar, rómverska landstjórans. Gæti eftir því virzt, að hið hryllilega örvæntingar-tiltœki Júdasar hafi þá einmitt komið fyrir. En þó er hitt allt eins líklegt, þegar vandlega er að gætt, að það hafi ekki verið fyrr en nokkru síðar um morguninn, þá er Pílatus loks hafði látið Gyðinga-höfðingjana kúga sig til að staðfesta dauðadóm þeirra yfir Jesú og boðið, að hann skyldi leiddr út til krossfestingar. Þessi síðarnefndi skilningr er í sjálfu sér öllu sennilegri en hinn, enda má hœglega samríma hann við sögu guðspjallamannsins, þótt þættinum um atburð þennan sé skotið inn í aðal-harmsöguna þar sem hann stendr. Hallgrímr Pétrsson hefir nú orkt heilan sálm út af afdrifum Júdasar, sextánda passíusálminn: ,,Júdas í girndar-gráði'', alls 15 vers. Það er mjög lærdómsríkr og dýrmætr sálmr, og myndi flestum finnast, að með því, sem þar er tekið fram, sé trúarmáls-efni það, er felst í þeim sérstaka, stór-hryggilega aukaþætti píslarsögunnar, algjörlega tœmt. En augsýnilega hefir skáldið góða ekki verið þeirrar skoðunar. Hann minnist í 16. sálminum að eins lauslega á það, hvað gjört hafi verið við þá þrjátíu silfrpeninga, launin fyrir ódáðaverkið, sem Júdas í örvæntingarœði fleygði í œðstu prestana áðr en hann deyddi sjálfan sig. Þeir vörðu því fé til þess að kaupa fyrir lóðarblett — leirkerasmiðsakrinn, sem nota mætti fyrir grafreit handa útlendum mönnum, er dœi í Jerúsalem. Þetta atvik gæti virzt einskisvirði í trúarlegu tilliti, og því ástœðulaust fyrir sálmaskáldið að gjöra annað við

það en drepa allra snöggvast á það í sambandi við hitt hryggðarsögu-málið eins og hann gjörir í 16. sálminum. En Hallgrímr Pétrsson leit ekki svo á það mál. Hann sá, að þetta um grafreitskaupin fyrir þrjátíu silfrpeninga var í augum guðspjallamannsins afar mikilsvert atriði í trúarlegu tilliti; og af því hann var þess fulltrúa, að þetta eins og allt annað í ritningunni væri fœrt í letr samkvæmt leiðslu og innblæstri heilags anda, þá hlaut hann að taka það ítarlega til greina. Hann yrkir út af því einn heilan langan sálm — seytjánda passíusálminn: ,,Svo sem fyrr sagt var frá". Og leiðir hann þar fram víðtœkara trúarefni og kristindóms-evangelíum en í nokkrum hinna passíusálmanna.

Sá passíusálmr er í raun og veru heilt guðspjall, gjörvallt meginmál hins kristilega trúarlærdóms. Óhugsanlegt er, að nokkur maðr með nýju skoðaninni á biblíunni, sem sumir menn eru nú af svo miklu kappi að reyna að koma inn í íslenzkan kirkjulýð, hefði getað orkt annað eins sálmaverk eins og passíusálmana; en allra sízt seytjánda passíusálminn. Textinn, sem sá sálmr er orktr út af, gæti ekki komið til greina sem evangelíum fyrir neinum manni með nýju skoðaninni. Það er eins og Hallgrímr Pétrsson hafi, þá er hann var búinn að yrkja 16. passíusálminn, allt í einu undir leiðslu guðs anda dottið ofan á nýja gullnámu í útjaðri texta þess, er hann áðr var við að eiga og virtist þegar hafa tœmt. Fyrst ofr lítil gullæð, sem hann eins og af hending kemr auga á. Þar nemr hann svo staðar og tekr til að grafa í jörðina. Og niðrstaðan verðr, að hann finnr þar stórkostlega námu, sem hefir inni að halda óþrotlega nœgt hins skírasta gulls. Hann finnr miklu meira í þeim útjaðri textans en hann hafði áðr fundið í meginmáli textans. Hann finnr þar allan kristindóminn. Og sá fundr sýnir öllum skýrt, hvað Hallgrímr Pétrsson var bæði sem skáld og kristilegr kennimaðr.

Þá er Matteus guðspjallamaðr hefir skýrt frá ráðsályktan œðstu prestanna um það, að keyptr skyldi lóðarblettrinn — leirkerasmiðsakrinn — útlendum mönnum til greftrunar, þá farast honum þannig orð:*) ,,Rættist þá það, sem talað er fyrir

*) Þetta er nákvæmari útlegging en sú í nýja testamentinu íslenzka, sem er í almennings höndum.

Jeremías spámann, segjanda: Og þeir tóku þá þrjátíu silfrpeninga, verð hins virta, sem þeir virtu af hálfu Ísraelssona, og þeir gáfu þá fyrir akr leirkerasmiðsins eins og drottinn bauð mér. " En nú finnast engin slík orð í spádómsbók Jeremíasar. Nokkrir staðir að vísu í þeirri bók, sem koma með boðskap þessu efni skyldan, en ekkert nærri því eins. A þá staði skal nú bent.

Í upphafi 18. kapítula þeirrar bókar er frá því skýrt, að orð drottins hafi komið til spámannsins þannig hljóðanda: ,,Tak þig til og gakk í hús leirkerasmiðsins, og þar mun eg kunngjöra þér mín orð." Spámaðrinn segist svo hafa gjört eins og honum var boðið. Hann hitti leirkerasmiðinn þar sem hann var við vinnu sína. Hann sá, að ílátið, sem hann var að smíða, reyndist ónýtt. En síðan bjó þó leirsmiðrinn til úr því annað ílát, gilt og gott. Þá segir drottinn við lýðinn fyrir munn spámannsins: ,,Myndi eg ekki geta, Ísraelsmenn, farið eins og þessi leirkerasmiðr með yðr? Sjá, eins og leir í hendi leirkerasmiðsins—eins eruð þér í minni hendi." Með þessu eru jarteiknuð hin yfirvofandi örlög Gyðinga-þjóðarinnar: herleiðingin til Babýlonar og endrreisnin, hin þjóðernislega endrfœðing, upp úr babýlonsku útlegðarvistinni. Því Jeremías var uppi einmitt á þeim tíma, er hinn fyrrnefnda voða-atburð bar að hendi. — Í 19. kapítula sömu bókar segir spámaðrinn enn fremr frá því, að hann hafi eftir skipan drottins gengið til leirkerasmiðsins, keypt af honum brúsa úr leir, komið svo fram fyrir fólkið í Jerúsalem og brotið brúsann í augsýn þess á einum stað þar utanvert við borgina — í Hinnomsdal eða Tófet, hinum ömurlegu sorpdyngju-stöðvum höfuðstaðarins, er síðar voru nefndar Gehenna — og í drottins nafni borið fram þennan boðskap: ,,Eins mun eg þetta fólk sundr brjóta og þennan stað, eins og menn sundr brjóta leirílát, sem ekki verðr aftr gjört heilt. Og í Tófet munu menn jarða, því að enginn grafreitr er til að jarða í." — Í þriðja lagi er frá því sagt í 32. kap. spádómsbókar Jeremíasar, að til spámannsins hafi komið náfrændi hans, Hanamel að nafni, og boðið honum til kaups — innlausnarkaups — akr sinn, óðal ættar þeirra, í Anatót, smábœ einum örskammt frá Jerúsalem,

þar sem Jeremías var borinn og barnfœddr. Og því boði hafi Jeremías tekið samkvæmt bending drottins og vegið honum út gjaldið í silfri.

Þetta eru allir staðirnir í spádómsbók Jeremíasar, sem nokkuð eru að efni eða orðalagi skyldir því spádómsmáli hjá Matteusi guðspjallamanni, sem Hallgrímr Pétrsson hefir fyrir yrkisefni í 17. passíusálminum. En í spádómsbók Sakaríasar, er uppi var ekki fullum hundrað árum síðar en Jeremías, á endrreisnartíðinni eftir babýlonsku útlegðina, koma í 11. kapítula fyrir orð nokkur, sem miklu meiı líkjast orðunum hjá guðspjallamanninum. Sakarías kemr þar fram fyrir landa sína til þess búinn að leggja niðr hirðisembætti sitt, hætta við spámannsstarfið, og segir við fólkið, sem hann í drottins nafni hafði unnið fyrir: ,,Ef yðr þóknast, þá greiðið mér kaup mitt; en ef ekki, þá látið það vera.'' Þeir vógu honum þá út þrjátíu sikla silfrs í kaupið. Svo lítils virði var þeim verk spámannsins eða það, sem drottinn sjálfr fyrir þann þjón sinn hafði í liðinni tíð gjört þeim til blessunar. Svo háðulega lágt verð lögðu þeir á guð eins og hann hafði opinberað sig í spámanninum. Þá segir Sakarías, að drottinn hafi við hann mælt þessum orðum: ,,Kasta þú til leirkerasmiðsins þessu merkilega kaupgjaldi, sem þeir hafa metið mig verðan.'' ,,Og'' — bœtir Sakarías við — ,,eg tók þá þrjátíu sikla silfrs og kastaði þeim í hús drottins til leirkerasmiðsins.''

Þetta, sem nú var síðast til fœrt, líkist mjög spádómsorðum þeim, er Matteus segir að rætzt hafi, þá er ráðherrar Gyðinga ályktuðu að kaupa akr leirkerasmiðsins fyrir þá 30 silfrpeninga, sem Júdasi höfðu áðr verið borgaðir til launa fyrir það að svíkja Jesúm. Enda segir Hallgrímr í passíusálminum, sem nú er um að rœða:

,,Af guðs ásettu ráði
um það Sakarías spáði.''

En guðspjallamaðrinn vitnar hér til Jeremíasar. Sumir hafa getið þess til, að þetta væri að eins rangminni hjá Matteusi. Önnur getgátan er þó sennilegri, að upphaflega hafi enginn spámaðr verið nafngreindr á þessum stað í sögu guðspjallamannsins, en nafninu hafi seinna verið bœtt við af einhverj-

um öðrum, sem eftirrit tók af guðspjallinu, út á spázíunni til skýringar, og síðan hafi það komizt inn í textann. En hvorug getgátan er nauðsynleg. Matteus guðspjallamaðr getr vel hafa litið svo á, að spádómrinn hjá Sakaríasi sé svo að kalla fœddr út af hinu verklega líkingarmáli í spádómsbók Jeremíasar, sem hér á undan hefir verið bent á og að nokkru leyti útskýrt. Þetta verðr enn sennilegra, þegar menn hafa að því gætt, að víða annarsstaðar í bók Sakaríasar er borinn fram drottinlegr boðskapr, sem bæði að efni og orðalagi augsýnilega á rót sína að rekja til ýmislegs spádómsmáls í bók Jeremíasar. Og svo er enn fremr að því að gæta, að spádómrinn, sem Matteus kemr með og segir að rætzt hafi, þá er ályktað var að kaupa leirkerasmiðsakrinn fyrir blóðpeningana, stendr engan veginn orðréttr í bók Sakaríasar.

Fjórða vers hins umrœdda passíusálms hljóðar svo:

,,Líkist leirkerasmið
líknsamr drottinn við,
sem Esajas fyrr sagði,
sjálfr það rétt út lagði.''

Hér er sálmaskáldið að hugsa um þessi orð í spádómsbók Esajasar (64, 7); ,,En nú, drottinn, þú ert vor faðir; vér erum leirinn; þú ert sá, sem myndaðir oss; allir erum vér þín handaverk.'' En að því er kemr til útleggingarinnar á þessum orðum í 5. v. sálmsins, þá vakir þar fyrir skáldinu það, er stendr í 9. kap. Rómverjabréfsins (9, 20—23): ,,Mun leirkerið segja við þann, er bjó það til: Hví bjóstu mig svona til? Eða á ekki leirsmiðrinn ráð á leirnum, svo hann megi gjöra úr sama deigi annað kerið til sœmdar, en hitt til vansœmdar?'' o.s.frv.

Þetta er inngangr til meginmálsins í passíusálminum, sem byrjar með sjötta versinu. Þá birtist gullið, sem hann sjálfr beinlínis grefr upp úr námu textans.

,,Drottinn einn akr á,
er honum falr sá;
minnstu, hann miskunn heitir,
mœddum lýð huggun veitir.''

Leirkerasmiðsakrinn lætr skáldið tákna miskunn guðs eða

kærleik hans syndurunum bágstöddum til handa. Jesús kaupir akrinn fyrir oss, ekki með peningagjaldi, heldr með heilögu blóði sínu, — fyrir oss, sem syndarinnar vegna vorum eins og útlendingar, útlagar, er hvergi eiga heima. Í akri miskunnarinnar getum vér nú átt heima og notið hvíldar — sökum friðþægingarpísla frelsarans. Lífs og liðnum er oss þar borgið. Þetta fagnaðarmál útskýrir Hallgrímr margvíslega og meistaralega allt út að 18. versi sálmsins. En þá fer hann að gjöra grein fyrir því, hvað frá mannsins hálfu útheimtist til þess, að hann fái notið þessarar miklu blessunar.

,,En þú skalt að því gá:
akrsins greftran þá
engir utan þeir fengu,
í Jerúsalem (sem) gengu.''

Menn verða að koma inn í kristnina — Jerúsalem táknar kristna kirkju — og dvelja þar í trúnni á Jesúm, hafa látið skírast og vera daglega iðrandi. Allir slíkir geta ókvíðnir verið í lífi og dauða. — Frá 22. versi verðr sálmrinn að bœn, þakkandi, lofsyngjandi og biðjandi bœn til frelsarans. Og þar verðr aðal-orð textans — akrinn — í huga skáldsins að einskonar gimsteini, sem í sólarbirtunni framleiðir margvísleg geislabrot fyrir auga áhorfandans eftir því, hver flötr steinsins snýr að honum:

,,Þú gafst mér akrinn þinn,
þér gef eg aftr minn;
ást þína á eg ríka,
eigðu mitt hjartað líka.''

Mannshjartað er líka akr. Sá akr skal drottni gefinn. Í næsta versi þar á eftir er minnzt á akr kristninnar, og þess beðið, að ávöxtr lífsstarfsins lendi þar, með öðrum orðum: komi kristinni kirkju að gagni. Og loks lætr skáldið akrinn tákna vígðan grafreit guðs barna — kirkjugarðinn. Hann beiðist þess af drottni, þótt auðvitað sé það ekkert sáluhjálparatriði, að hann framliðinn fái að hvíla í helgum reit. Þessi sama ósk Hallgríms Pétrssonar kemr víðar fram í trúarljóðum hans. Hann þráir það auðheyrt mjög sterklega, að honum verði í öllum skilningi veitt kristileg útför.*) Og flestum trú-

*) Einkum í bœnarljóðunum ,,Um kristilega burtför'' (,,Enn ber eg andar kvein'') 24., 31.—35. v. Athuga enn fremr 49. passíusálminn (14.—22. v.).

uðum Íslendingum þykir að líkindum enn vænna um hann fyrir þá ósk hans.

27. (seinasta) versið í 17. passíusálminum ætti að vera öllum ógleymanlegt — þessi bœn, sem fram er borin með upprisuboðskap Páls postula í 15. kap. fyrra bréfsins til Korinþumanna í huganum:

„Hveitikorn þekktu þitt,
þá upprís holdið mitt;
í byndinu barna þinna
blessun láttu mig finna.“

---

1. Svo*) sem fyrr sagt var frá,
silfrpeninga þá,
hverjir loks Júdas hrelldu,
höfuðprestarnir seldu.

2. Og keyptu einn til sanns
akr pottmakarans;
þar má fullt frelsi hafa
framandi menn að grafa.

3. Þar finnst ein þýðing fín,
þess gættu, sála mín;
af guðs ásettu ráði
um það Sakarías spáði.

4. Líkist leirkerasmið
líknsamr drottinn við,
sem Esajas fyrr sagði,
sjálfr það rétt út lagði.

5. Af leir með lífsins kraft
lét hann mannkynið skapt;
hrein ker til heiðrs setr,
hin önnur lægra metr.

6. Drottinn einn akr á,
er honum falr sá;
minnstu, hann miskunn heitir,
mæddum lýð huggun veitir.

7. Jesús er einn sá mann,
sem akrinn keypti þann;
en hans blóðdropar blíðir
borgunargjaldið þýðir.

8. Framandi fólkið það,
sem fékk ei neinn hvíldarstað,
erum vér sorgum setnir,
af syndugu eðli getnir.

9. Illskunnar eðlið vort
útlenda hefir gjört
oss frá eilífri gleði;
í Adams falli það skeði.

10. Sálin í útlegð er
æ meðan dvelst hún hér
í holdsins hreysi naumu,
haldin fangelsi aumu.

11. Dauðinn með dapri sút
dregr um síðir út
hana, þá hreysið brotnar,
holdið í jörðu rotnar.

12. Eins og út kastað hræ
(ef eg rétt skynjað fæ)
hjálparlaus sál mín heita,
hvíldar ei kann sér leita.

13. Hættu og hörmung þá
herrann minn Jesús sá,
önd vora' af ást og mildi
úr útlegð kaupa vildi.

14. Faðirinn falt það lét,
friðarstað sálum hét,
ef sonrinn gjald það greiddi,
sem guðs réttlætið beiddi.

15. Opnaði sjóðinn sinn
sonr guðs, Jesús minn,
húðstrýktr, kvalinn, krýndr,
á krossi til dauða píndr.

16. Blóðdropar dundu þar,
dýrasta gjald það var;
keyptan akr því eigum,
óhræddir deyja megum.

17. Hér þegar verðr hold
hulið í jarðarmold,
sálin hryggðarlaust hvílir;
henni guðs miskunn skýlir.

18. En þú skalt að því gá:
akrsins greftrun þá
engir utan þeir fengu,
í Jerúsalem gengu.

---

*) Allr 17. passíusálmrinn er hér prentaðr til samanburðar við ritgjörðina næst á undan.

19. Kristnin guðs hér um heim
heitir Jerúsalem;
í hana' inn komast hlýtr
hver sem miskunnar nýtr.

20. Í henni' hver einn sá er,
á Jesúm trúir hér,
skírðr og alla vega
iðrun gjörir daglega.

21. Ókvíðinn er eg nú,
af því eg hefi þá trú,
miskunn guðs sálu mína
mun taka' í vöktun sína.

22. Hvernig sem holdið fer,
hér þegar lífið þver,
Jesú, í umsjón þinni
óhætt er sálu minni.

23. Eg lofa, lausnarinn, þig,
sem leystir úr útlegð mig;
hvíld næ eg náðar spakri
nú í miskunnar akri.

24. Þú gafst mér akrinn þinn,
þér gef eg aftr minn;
ást þína á eg ríka,
eigðu mitt hjartað líka.

25. Eg gef og allan þér,
æ meðan tóri' eg hér,
ávöxtinn iðju minnar
í akri kristninnar þinnar.

26. Eins bið eg aumr þræll,
að unnir þú, Jesú sæll,
liðnum líkama mínum
legstað í akri þínum.

27. Hveitkorn þekktu þitt,
þá upp rís holdið mitt;
í byndini barna þinna
blessun láttu mig finna.—Amen.

---

## Prestaskortrinn.

Eftir séra Björn B. Jónsson.

Einu sinni sem oftar safnaðist mesti fjöldi fólks til Jesú. Hann komst við í hjarta sínu, þegar hann sá, hvernig ástatt var fyrir því: „Það var hirðingarlaust sem sú hjörð, er engan hirði hefir.“

Ástand vort, Íslendinganna margdreifðu hér í Vestrheimi, hefir löngum verið líkt þessu ástandi fólksins á Gyðingalandi. Um stóra hópa fólks vors hefir ávallt mátt segja: „Þeir eru sem hjörð, er engan hirði hefir.“

Hvernig stendr á því, að slíkt ástand skuli geta átt sér stað nú á þessari miklu kristniboðs-öld, nú, þegar trúboðið kristilega er rekið af meira kappi í heiminum en nokkru sinni áðr, nú, þegar hirðar drottins fara um öll lönd og til afskekktustu og aumustu þjóðflokka? Hefir guð gleymt oss? Eða er sökin hjá mönnunum, sem trúað hefir verið fyrir íslenzkum kristindómi?

Eg hefi lesið sögu hinna annarra þjóðflokka lúterskrar trúar, sem til þessa lands hafa flutt löngu á undan oss Íslendingum; og eg sé af sögu þeirra, að móðurkirkjan heima, hvort heldr í Þýzkalandi eða skandinavisku löndunum, hefir

látið hirða sína fylgja hjörðinni yfir hafið og skoðað nýbyggjana í Vestrheimi sín andleg börn, og annazt þá í kirkjulegu tilliti meðan á þurfti að halda.

En hvað hefir móðir vor, kirkjan á Íslandi, gjört til að annast oss, börnin sín burtfluttu? Ekkert. Vér sendum kveinstafi vora yfir hafið eins og þeir í Masedóníu forðum og sögðum: ,,Komið yfir um til að hjálpa oss.'' Ekkert svar að heiman. Vér sendum vorn bezta mann, forseta félags vors, til ættjarðarinnar að sœkja oss andlega hirða. Þeir kölluðu hann ,,útflutninga-agent'' og ,,óvin Íslands'', og hann kom til vor aftr svo búinn.

Þegar neyð vor var stœrst, var hjálp móðurkirkjunnar á Íslandi fjærst!

Trúbrœðr vorir hér í landi hafa aftr á móti allt viljað gjöra, sem þeir gátu, til að hjálpa oss í vandræðum vorum, einkum sú deild lútersku kirkjunnar, er mest hefir borið oss fyrir brjóstinu, *General Council.* Frá því fyrst, er hinn göfugi mannvinr og Krists vottr, dr. W. A. Passavant, kynntist oss og fram á þennan dag, hafa brœðr vorir í *Gen. Council* gjört oss margt gott, tekið að sér prestsefni vor og menntað þau fyrir oss, og verið fúsir að hjálpa oss enn þá meir, hefðum vér viljað. En oss hefir að sumu leyti farizt ódrengilega við þá í staðinn; vér höfum stundum misskilið þá og tortryggt og ávallt neitað að ganga í bandalag með þeim.

Nú er bráðum liðinn heill mannsaldr frá því vér fyrst fórum að flytja til þessa lands. Og nú er líka svo komið, að þegar vér horfum til baka yfir kirkjusögu vora og andlega baráttu, þá er oss sumum næst að ætla, að eftir allt hafi það verið guðleg forsjón, sem því réð, að vér ekki fengum fleiri kirkjulega hirða eða meiri ,,hjálp'' frá Íslandi.

En nú, þegar harðasta stríðið er um garð gengið, fara að heyrast raddir heiman að í þá átt, að prestar þar ætti nú að fara vestr til vor oss til hjálpar.

Eg efast ekki um, að þær raddir koma frá góðum og bróðurlegum hjörtum. En eg vil leyfa mér að benda á, að tímarnir hafa breytzt, og nú getum vér ekki lengr haft gagn af hjálp frá Íslandi.

Fyrst skal eg minna á það, að vér erum ekki lengr „grœnir" útlendingar hér í landi. Allar helztu byggðir vorar hafa tekið upp hérlent snið og vér erum farnir að hugsa, tala og starfa eins og innlendir menn. Vér snúum æ meir faðminum að þessu nýja fóstrlandi voru og líkjumst í öllum hlutum æ meir samborgurum vorum hér. Vér getum því ekki hér eftir haft full not af neinum þeim starfsmanni, sem ekki er *hérlendr* í hugsunarhætti og starfsmáta. Allsstaðar í bœjum og víðast hvar í landsbyggðunum þurfa prestar vorir að vera vel að sér í tungumáli landsins, enskunni, og í nálægri framtíð verðr það hvervetna, að kennimaðr safnaðarins má til að vera því vaxinn að prédika jafnt á ensku sem íslenzku.

Svo er annað, sem þarf að taka til greina. Safnaðarlíf vort hér er fríkirkjulegt að fyrirkomulagi. Og í fríkirkjunni í Vestrheimi er allt fyrirkomulag og öll starfsaðferð svo ólík því, sem er í þjóðkirkjunni á Íslandi, að prestar, sem vanizt hafa eingöngu fyrirkomulagi þjóðkirkjunnar, gæti engan veginn orðið að fullkomnu liði í söfnuðum vorum — eins og líka að þeir prestar, sem vanir eru fríkirkjulega fyrirkomulaginu hér, ekki myndi geta notið sín í þjóðkirkjunni.

Og svo er enn eitt. Ef dœma má um anda þann, sem býr í prestaskóla Íslands og ásýnd hans í blaði prestaskólakennarans, „Verði ljós!", — eins og það blað hefir verið í seinni tíð—, þá er mjög vafasamt, að prestlingar frá Reykjavíkr prestaskóla geti fengið inngöngu í kirkjufélag vort. Með löggjöf frá kirkjuþingi árið 1893 er fyrirskipað, að allir þeir, sem um prestsembætti sœki innan kirkjufélags vors, skuli vera prófaðir og skuli þeir gjöra grein fyrir sinni kristilegu trúfrœði. Nú þarf enginn að láta sér detta í hug, að nokkur guðfrœðingr kœmist gegn um það próf og fengi mótmælalaust inngöngu í kirkjufélag vort, sem t. a. m. fylgdi stefnu hinnar „hærri kritíkar" og vefengdi það guðs orð, sem hann þó á að skuldbinda sig til að kenna.

Já, tímarnir hafa breytzt og margra hjartans hugrenningar hafa líka orðið opinberar á síðustu tíð, svo vér erum nú farnir að sjá, að vér ekki megum sœkjast eftir prestum frá

Íslandi og að vér ekki getum haft fullt gagn af þeim, þó þeir komi eftir þetta.

En hvað á þá að gjöra? Prestaskortrinn hefir aldrei verið tilfinnanlegri hjá oss en einmitt nú; því þótt vér höfum nokkrum fleiri starfsmönnum á að skipa en var framan af, þá eru söfnuðirnir og byggðirnar nú tiltölulega miklu fleiri en áðr. Ástand fólksins hefir líka breytzt, svo að nú eru margar byggðir tilbúnar að taka á móti presti, sem fram að seinustu árum hafa naumast verið því vaxnar að launa presti. Og fleira og fleira fólk þráir prestsþjónustu og biðr kirkjufélagið um presta, en vér getum litla sem enga áheyrn veitt því.

Presta hljótum vér að fá; en hvar eigum vér að finna þá? Vér verðum að fá þá í vorum eigin hópi, finna þá í söfnuðunum sjálfum.

En þá kemr þessi spurning fyrir oss: Hvernig stendr á því, að vér ekki höfum fengið miklu fleiri unga menn úr hópi vorum til að gjörast prestar? Á síðari árum hafa margir ágætir ungir Íslendingar menntað sig við hérlenda skóla. Læknum, lögfrœðingum og kennurum fjölgar óðum. En svo undr fáir af þeim, sem skólaveginn hafa gengið, hafa viljað gjörast prestar. Hvernig stendr á því?

Tvær orsakir eru þegar undir eins sýnilegar á yfirborðinu. Önnur er það, að þeir prestar, sem fyrst byrjuðu að vinna fyrir landa sína hér, urðu framan af fyrir hrópanda ranglæti. Þeir voru níddir og ofsóttir. Hið mikla kristindóms- og prestahatr, sem margir Íslendingar komu með í sér að heiman frá Íslandi og svo mikið bar hér á um tíma, var látið bytna á þessum prestum. Þeir voru úthrópaðir í blöðum og móðgaðir á mannfundum. Það varð því augljóst, að hver sá maðr, sem gæfi sig við prestskap, yrði að vera við því búinn að ganga út í slíkt stríð og þola slíkan ójöfnuð. Þessar ofsóknir hafa nú hætt, en þær höfðu það í för með sér, að ungir menn fældust frá prestsstöðunni.

Hin orsökin, sem sýnileg er á yfirborðinu, er það, að prestum er launað verk sitt miklu lakar en öðrum embættismönnum. Læknar, lögmenn og verzlunarmenn hafa miklu meiri laun til jafnaðar en prestarnir. Skiljanlega verðr þá

oftast niðrstaðan sú, að skólagengnir menn kjósa sér þær lífsstöðurnar, sem betr eru launaðar, einkum þegar þess er þá líka gætt, að verk prestsins í íslenzku nýlendunum er afar örðugt. Víðast hvar eru margir söfnuðir í prestakalli og þar af leiðanda margfalt verk og sífellt ferðalag fyrir prestinn. Kjör prestsins eru að sönnu sumsstaðar að batna, einkum að því er launin snertir. En þetta hefir nú svona verið víðast. Og ætíð verðr það til að aftra ungum og efnilegum mönnum frá því að verða prestar, ef þeir vita, að prestrinn fær minni laun en aðrir embættismenn, minni laun en margir bókhaldarar og búðarsveinar, ef þeir sjá, að prestrinn er verr hýstr, verr klæddr og verr fœddr en aðrir menn. Vér fáum aldrei góða presta nema vér getum borgað þeim sœmileg laun. Og stundum eru þessi litlu laun prestanna greidd með eftirtölum. Læknum, lögmönnum og embættismönnum ríkisins er venjulega möglunarlaust borgað fyrir sín verk, en laun prestsins eru oft klipin undan nöglum. Auðvitað á þetta sér ekki lengr stað í gömlum prestaköllum, en þetta heyrðu og sáu ungir menn, og sé nokkuð fráfælanda fyrir röska og sjálfstœða menn, þá er það einmitt það að vera álitnir hálfgjörðir ölmusumenn.

Báðar þessar orsakir eru nú að verða léttvægari. Prestarnir eru nú ekki lengr ofsóttir og kjör þeirra, bæði að því, er laun og annað snertir, fara batnandi. Það ætti því að vera miklu aðgengilegra hér eftir en að undanförnu að gefa sig við prestskap hjá Íslendingum. (Niðrl. næst.)

---

Hr. G. S. Haller við Cuba-pósthús í Nebraska hefir nýlega sent kirkjufélagi voru að gjöf $5.00 í missíónarsjóð þess. Enn fremr hefir sami maðr nýgefið bókasafni kirkjufélagsins: Seventh-Day Adventism Renounced by D. M. Canright. Grand Rapids, Mich. 1889.

---

Hr. Ólafr S. Þorgeirsson, 644 William Ave., Winnipeg, er féhirðir „Sam.".

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið „Kennarinn" fylgir með „Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri „Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Björn B. Jónsson, N. Steingrímr Þorláksson.

Prentsmiðja Lögbergs. — Winnipeg.